Óreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

STÉTTABARÁTTAN SKORAR
Á ÁSKRIFENDUR SÍNA AÐ
GREIÐA NÚ SEM FYRST VAN-
GOLDIN ÁSKRIFTAGJÖLD
SÍN:

1. tölublað | föstudagur 29. 2. 1980 | 9. árgangur | Kr. 200.-

## Sameining KFÍ og EIK

Fyrsta skref sameiningar
Eik og KFÍ er sameining mál-
gagna samtakanna.
Sameining hefur verið meira
og minna á dagskrá undanfarin
ár en jafnan kastast í kekki og
ekkert orðið úr og samskiptin
jafnvel verri á eftir.
Hér verður ekki farið nánar
út í þá sálma né ástæðurnar.
Nægir að minna á að sjaldan
veldur einn þá tveir deila.
Um hitt geta allir verið sam-
mála að þessi sundrung hefur
leitt til mikillar hrörnunar
marx-lenínískrar hreyfingar í
landinu þar sem mest öllu afl-
inu hefur verið eytt í átök milli
einstakra hópa sem þegar allt
kemur til alls eru meira sam-
mála en ósammála.
Þessi sundrung sem kemur
fram í því að lokast inn í mis-
munandi smáum og hreinum og
tærum samtökum er ekki til
vegna fávísi einstakra marxista
Þetta er þvert á móti afleiðing
einangrunarstefnu og kreddu-
festu hreyfingarinnar í heild.
Þetta verða menn að gera sér
ljóst ef hreyfingin á að komast
út úr þessari úlfakreppu. Það
er pólitísk stefna sem var röng.
Hana verður að uppræta og jafn-
framt að gera sér grein fyrir
því að hún getur sett mark sitt
á allt starf og skipulag hreyf-
ingarinnar.
Þau atriði sem þess vegna
verða nú efst á baugi hljóta því
að verða sjálfan flokkinn, skipu-
lag hans og starfshætti.
Leiðarljósið í því verður alltaf
að vera hvað hentar okkur best
miðað við markmið okkar og
miðað við íslenskar aðstæður.
Allt of oft hefur fremur verið
litið til þess hvernig skipulag
og starfshættir hafa komið heim
og saman við forskriftir eða
hugmyndir annarra flokka og
frumkvöðla hreyfingarinnar.
Við verðum að hafa hugfast að
það sem hentar á einum stað
hentar ekki endilega best annars
staðar og það sem hentar á-
kveðnu tímabili hentar ekki á
öðrum.
Í raun og veru felst munurinn
á kreddufestu og lifandi marx-
isma í þessu: þ.e. hvort viðmið-
unin er okkar eigin raunveruleik
eða hvort það er einhver annar
raunveruleiki, gjarnan fenginn
úr útlendum bókum.

frh. á bls. 3



## BSRB og samningarnir

Stéttabaráttunni hefur borist
dreifirit frá "Áhugasömum
félögum" innan BSRB.
Tilefni bréfsins eru komandi
samningar BSRB við ríkisvaldið
og drátturinn sem orðið hefur á
þeim. Dreifiritið er birt í heild
annars staðar í blaðinu.
Stéttabaráttan tekur fyllilega
undir með áhugasömum félögum
að kröfugerðin er góð og full
ástæða til að styðja hana af al-
efli.
En það vakti athygli þegar
fundur samninganefndar BSRB
sendi frá sér ályktun nýlega þar
sem ekki var annað að sjá en
dregið væri í land. Í kröfugerð-
inni er krafist kauphækkana
talsvert fram yfir kaupmátt síð-
ustu samninga en í téðri ályktun
er krafist sama kaupmáttar og
var eftir síðustu samninga.
Í sjálfu sér má segja að þetta
sé eðlilegt að því leyti að raun-
hæfara væri að setja fram kröfu
um sama kaupmátt en hitt er ó-
eðlilegt að slá af kröfum áður
en farið er að ræða þær.

### Hver er hættan?

Forystumenn BSRB hafa gert
góða kröfugerð en sama verður
varla sagt um framkvæmdir
þeirra og aðgerðir til að ná
kröfunum fram.
Manni dettur í hug að nú eigi
að leika gamla leikinn um fél-
agsmálapakkana og semja um
einhverskonar félagsleg réttindi

En opinberum starfsmönnum
er þá hollt að minnast afdrifa
4% félagsmálapakkans frá 1.
des 1978. Hann hefur nefnilega
gjörsamlega týnst.
Ráðamenn og atvinnurekendur
koma nefnilega illa upp um sig
þegar þeir bjóða félagsmála-
pakka sem kosta þá lítið sem
ekkert. Í því felst að sjálfsögðu
að kjarabótin sé á sama hátt
lítil sem engin.
Sem dæmi má vísa til þess
sem segir í dreifiritinu um 5-7
milljarðana. Að auki má bæta
því við að hluti þess átti að
renna til "félagslegra íbúðar-
bygginga". En ætlunin er auð-
vitað ekki að gefa neinum íbúð-
ir heldur selja. Það sem ríkið
ætlar að gera er að útvega
væntanlegum kaupendum lán, á
okurvöxtum eins og nú tíðkast.
Þarna er því ekki um útgjöld
að ræða heldur fyrirgreiðslu
sem bæði ríkið og vitanlega
byggingarverktakinn græða á

frh. á bls. 3

## Dreifirit til félaga BSRB

Opinberir starfsmenn hafa nú
verið með lausa samninga í
rúma 8 mánuði. Að mati okkar,
sem að þessu dreifiriti stöndum
hafa stjórn og samninganefnd
staðið sig illa, bæði við að
knýja á um nýja samninga og
við að kynna kröfugerðina. Sá
ávinningur, sem náðist í samn-
ingunum '77, var ekki síst því
að þakka, hve vel félagsmenn
fylgdust með gangi mála og
veittu fulltrúum sínum aðhald.
Samningum var sagt upp 1.
apríl s.l., þ.e. fyrir tæpu ári
síðan. Í lögum er gert ráð
fyrir, að kröfugerð aðalkjara-
samnings sé lögð fram á sama
tíma. Fullmótuð kröfugerð var
ekki lögð fram fyrr en í endaðar
nóvember '79. Kröfugerð fyrir
sérkjarasamninga átti einnig
að liggja fyrir 1. maí, hún hefur
ekki enn séð dagsins ljós.

### Hvaða áhrif hefur þessi seinagangur á kjör okkar?

Hagfræðingar BSRB töldu í haust
að um 15% kjaraskerðingu hefði
verið að ræða á samningstíma-
bilinu. Og enn heldur kjara-
skerðingin áfram. Kröfugerð
samtaka okkar miðar að því að
vinna upp kjaraskerðinguna, auk
þess sem kjör þorra félags-
manna verði bætt. Dráttur á
samningum hefur þegar kostað
sérhvert okkar tugi eða hundruð
þúsunda króna. Það er því
furðulegt að forysta okkar skuli
ekki hafa ýtt frekar á eftir

frh. á bls. 2

## Hugleiðingar um Kampútseu



Prússneski hernaðarfræðingur-
inn Von Clauzewitz, sem kalla
má föður nútíma hernaðarfræði
sagði eitt sinn, að stríð væri
ekkert annað en framhald af
þeirri pólitík sem rekin hefði
verið árin áður en stríðið skall
á. Þessi fræga skilgreining á
eðli og upptökum styrjalda kom
upp í huga mér, þegar ég horfði
á sjónvarpsþátt nokkurn er
fjallaði um hörmungarnar í
Kampútseu.
Breski blaðamaðurinn John
Pilger fullyrti í þessum þætti,
að orsökin fyrir innrás víetnam
í Kampútseu, hefði verið að
koma alþýðu þessa hrjáða lands
til aðstoðar. Raunveruleikinn
er allur annar og sérhver sá.
sem minnstu hugmynd hefur um
sögu SA-Asíu á þessari öld
getur hæglega vitnað um það.
Það er ekkert einfaldara, en að
fyllast meðaumkun og samúð
með ólýsanlegum þjáningum
þess fólks sem myndað var í
ofangreindum sjónvarpsþætti.
Og slíkt held ég að allir hljóti
að gera. En leiðir það okkur í
allan sannleik um eðli þessara
átaka?

frh. á bls. 3

LEIÐARI

# Sameining marx-lenínista

Eins og áskrifendur Stéttabaráttunnar hafa orðið varir við hefur blaðið ekki komið út um sinn. Til að bæta gráu ofan á svart hefur verið ákveðið að blaðið komi framvegis ekki út. Þetta er semsagt síðasta tölublað Stéttabaráttunnar. Um leið hefur göngu sína nýtt blað, Verkalýðsblaðið-Stéttabaráttar. Eins og nafnið bendir til er um að ræða samruna tveggja blaða, Verkalýðsblaðsins og Stéttabaráttunnar.

Þetta er að hluta til ástæðan fyrir því að Stéttabaráttan hefur ekki komið út undanfarið. Það er ekki ástæða til að draga dul á það að aðrir erfiðleikar háðu einnig útgáfu Stéttabaráttunnar. Þar var bæði um að ræða fjárhagslega erfiðleika og starfræna.

Saga marxísku hreyfingarinnar a.m.k. undanfarin 3-4 ár hefur einkennst af sífelldri innri baráttu þar sem marxistar hafa lokað sig inni í meira og minna einangrunarsinnuðum samtökum. Þessi barátta hefur óneitanlega dregið þrótt úr starfi marx-lenínísku hreyfingarinnar.

Eftir því sem hreyfingin hefur betur áttað sig á eðli einangrunarstefnunnar þá hafa horfið ýmsir þröskuldar úr vegi samstarfs og sameiningar.

Undanfarnar vikur hafa staðið yfir sameiningarviðræður milli fulltrúa EIK og KFÍ. Þær viðræður hafa gengið afar vel og sameining þessara samtaka er nú skammt undan.

Fyrsta meiriháttar starfið í þessari sameiningu er að leggja niður málgögn samtakanna beggja og hefja útgáfu nýs málgagns.

Þetta málgagn mun til að byrja með bera nafnið Verkalýðsblaðið-Stéttabaráttan, a.m.k. þar til formleg sameining EIK og KFÍ hefur orðið. Verkalýðsblaðið-Stéttabaráttan ve[illegible]ur því fyrst um sinn malgagn tveggja samtaka. Sameining blaðanna er gerð á grundvelli jafnréttis beggja aðila og það nothæfasta notað úr vinnslu- og dreifikerfi hvors um sig. Blaðið verður hálfsmánaðarblað til að byrja með.

Áskrifendur verða sjálfkrafa áskrifendur hins nýja blaðs og áskriftargjöld ársins 1980 teljast áskriftargjöld Verkalýðsblaðsins-Stéttabaráttunnar.

Það er von okkar og vissa í ritnefnd Stéttabaráttunnar að áskrifendur og stuðningsmenn blaðsins muni fagna þessari breytingu og styðja heilshugar hið nýja blað og gera átak í að stækka það, efla og útbreiða.

Sameining EIK og KFÍ, sem hefst á sameiningu blaðanna, markar viss þáttaskil í sögu marx-lenínískrar hreyfingar á Íslandi. Með þessu er lokið áralöngu sundrungarstarfi sem dregið hefur mátt úr gervallri hreyfingunni. Hún er í raun og veru að slíta barnsskónum og gera upp við barnasjúkdóma einangrunarstefnunnar.

Sundrungin hefur ekki aðeins verið á Íslandi heldur í flestum löndum þar sem marx-lenínísk hreyfing er til. Í mörgum þessara landa fer nú fram þróun hliðstæð því sem er að gerast hér og nú. Má þar nefna marx-lenínista í Bandaríkjunum, Íran, Þýskalandi og víðar.

En sameiningin er aðeins hafin en ekki lokið. Sameining EIK og KFÍ er fyrsta skrefið í sameiningu marx-lenínista. Þrátt fyrir þessa sameiningu eru marx-lenínistar tvístraðir og þá er að finna innan ólíkra samtaka, félaga og flokka.

Markmið okkar hlýtur að vera áframhaldandi sameiningarstarf með það fyrir augum að samstilla krafta sósíalista í eina volduga hreyfingu undir merkjum sósíalískrar byltingar. Án slíks víðtæks samstarfs verður sósíalisminn aðeins hilling í blámóðu fjarskans.

Ritnefnd Stéttabaráttunnar og félagar KFÍ þakka áskrifendum og stuðningsmönnum Stéttabaráttunnar stuðning undanfarin ár og vænta áframhaldandi starfs við hið nýja blað.

# Sovéska útþenslustefnan

Fyrir all mörgum árum vöruðu marx-lenínistar eindregið við því, að Detente stefnan væri ekki annað en yfirvarp yfir aukna hervæðingu og undirbúning Sovétríkjanna undir nýja heimsstyrjöld. Þessi viðvörunarorð hafa enn ekki tapað gildi sínu. Innrás Sovétríkjanna í Afghanistan eru bara síðasta og ljótasta dæmið um heimsyfirráðastefnu þeirra. Þrátt fyrir þessa villimannlegu innrás, halda mörg Evrópuríkjanna enn í þá von, að bæta megi sambúð vesturveldanna og Sovétríkjanna og vilja endurvekja Dentente. Helsinki-ráðstefnan sem staðfesti Detente stefnuna tók einnig til almennra mannréttinda, en Sovétríkin hafa í raun aldrei farið eftir ákvæðum Helsinkisáttmálans. Það sést ekki aðeins á handtöku Sakharovs, sem þó hefur vakið hvað mesta reiði utan Sovétríkjanna, heldur og af því, að hert hefur verið á lögreglueftirlitinu á öllum sviðum í Sovétríkjunum.

## Hvað boðar innrásin í Afghanistan?

Ýmsir fréttaskýrendur hafa gert því skóna, að innrás Sovétríkjanna sé undanfari frekari útþenslu í SV-Asíu. Hafa þeir nefnt, að Baluchistan-hérað í Pakistan, þar sem vinstrisinnuð aðskilnaðarhreyfing hefur látið að sér kveða um skeið, muni verða næsta skotmark Kremlar. Enn aðrir telja, að Sovétríkin ætli sér að skera á olíu aðflutninga til Evrópu, með því að búa um sig í V-Asíu og vera því viðbúnir að taka hinar auðugu olíuauðlindir arabalandanna ef til stríðs kæmi. Þessar hugmyndir hafa áreiðanlega við nokkur rök að styðjast, þótt ólíklegt sé, að Sovétríkin láti skerast í odda á þessu svæði í nánustu framtíð. Hafnaraðstaða við Indlandshaf og kverkatak á olíuauðlindunum í Arabíu og Íran er hvort tveggja mikilsvert hernaðarlega séð. En hitt er líka ljóst, að bandaríska heimsvaldastefnan ætlar sér ekki að sitja auðum höndum meðan þessu fer fram. Stofnun sérstaks olíuhers, sem telur a.m.k. 100 þúsund manns og fyrirhugaðar herstöðvabyggingar á þessu svæði, sýna svo ekki verður um villst, að Bandaríkin búa sig til átaka og ætla sér ekki að gefa eftir þetta hefðbundna yfirráðasvæði sitt. Hitt er líka augljóst, að Sovétríkin hefðu ekki ráðist inn í Afghanistan í árslok 1979, ef þau hefðu ekki talið að öll önnur sund væru lokuð. Sovétríkin tóku þá áhættu að Olympíuleikarnir yrðu hunsaðir af hinum vestræna heimi og arabalöndunum, þegar þeir fóru með her sinn inn í Afghanistan. Slík áhætta hefði vafalaust ekki verið tekin, nema vegna þess, að sovéskir ráðamenn hafa álitið að hin veika stjórn Amins myndi þá og þegar brotna saman undan þrýstingi uppreisnarmanna og að sú stjórn sem tæki við yrði hliðholl Bandaríkjunum. En sýnir þetta ekki ljóslega, að sovéskir ráðamenn eru reiðubúnir að taka á sig mikla diplómatíska áhættu, til þess að veikja ekki stöðu sína í fyrirhugaðri útþenslustyrjöld ?

## Andstaðan gegn sovésku innrásinni.

Andstaðan gegn sovéskri innrás í Afghanistan er mjög víðtæk, en jafnframt mjög sundurleit. Hún spannar allt frá heitustu stuðningsmönnum bandarísku heimsvaldastefnunnar til marxista-lenínista. Pólitískar afleiðingar innrásarinnar hafa m.a. orðið til þess, að fylgismenn stórveldanna tveggja, sem áður höfðu frekar hægt um sig, hafa komið fram í dagsins ljós og gerst opinskáir talsmenn hernaðarstefnu þess stórveldis sem þeir fylgja. Þannig hafa stuðningsmenn bandarísku heimsvaldastefnunnar rokið upp og krafist aukins vígbúnaðar, eflingar NATO og harðra aðgerða gegn Sovétríkjunum. Stuðningsmenn Sovétríkjanna, sem áður létu svo sem þeir styddu stefnu þeirra vegna þess að hún boðaði spennuslökun hafa nú kastað grímunni og gerast stuðningsmenn heimsvaldasinnaðrar útþenslustefnu og talsmenn innrásarinnar í Afghanistan. Það er mikilvægt að marx-lenínistar haldi baráttu sinni gegn báðum risaveldunum áfram. Sumir virðast álíta að utanríkispólitískir hagsmunir Kínverja muni leiða til þess, að marx-lenínistar gerist stuðningsmenn bandarísku heimsvaldastefnunnar.

Þessu er ekki þannig varið. En á hitt má benda, að pólitísk stefnumörkun í hringiðu samtíma viðburða, verður að taka fullt tillit til útþenslustefnu Sovétríkjanna. Þeir tímar eru liðnir, þegar bandaríski herinn stóð að baki sérhverju valdaráni og sérhver átök voru að undirlagi Pentagon. Þeir tímar eru liðnir þegar bandaríska heimsvaldastefnan var helsti fjandmaður alþýðu heimsins. Bandaríska heimsvaldastefnan hefur ekki sungið sitt síðasta og henni verður ekki á kné komið nema með baráttu. En aðstaða hennar er lík og breska heimsveldisins eftir fyrri heimsstyrjöldina. Hún er risi á leirfótum, sem býr yfir geysilegum hernaðar- og framleiðslumætti, sem heldur stærst um hluta heims undir forræði sínu, en jafnframt getur hún ekkert aðhafst án þess að kalla yfir sig reiðiöldur almúgans í öllum hornum heimsins. Sovétríkin eru hins vegar stórveldi á uppleið, hungrað eftir áhrifasvæðum, vígbúið og valdstýrt, svo sérhver vöðvi þess er spenntur að einu marki: útþenslu og heimsyfirráðum. Þess vegna eru Sovétríkin hættulegri óvinur. Þessi staðreynd má hins vegar ekki verða til þess að alþýða Íslands sætti sig við forræði bandarísku heimsvaldastefnunnar, við verðum að berjast gegn heimsvaldastefnu, drottnunargirni og hernaðarofbeldi, hvaðan svo sem það kemur.

## Kröfugerðin: Hvernig er hún og hvar er hún?

"Áhugasamir félagar" hafa kynnt sér ítarlega kröfugerð samtakanna og lýsa yfir fullum stuðningi við helstu atriði hennar.

Meginatriðin í kröfugerðinni eru

1. Kröfugerðin gerir ráð fyrir að það kjararán, sem átt hefur sér stað, sé að fullu bætt og hafnar þar með launalækkunarstefnu, sem ríkisvald og ASÍ-forystan boða.
2. Gert er ráð fyrir að verðbætur á laun verði óskertar.

   Þessi krafa er eina tryggingin fyrir því að umsaminn kaupmáttur haldist út samningstímabilið.
3. Samningstíminn skal vera samningsatriði. Opinberir starfsmenn geta ekki sætt sig við samninga, þar sem þessi krafa nær ekki fram að ganga

Við tökum undir orð blaðafulltrúa BSRB í Dagblaðinu 11. feb sl.: "Það er ótækt að kröfugerð okkar rykfalli í fjármálaráðuneytinu. Til þess er hún allt of merkileg".




Um leið og lofað er "félagsmálapökkum" er reynt að skera niður félagslega þjónustu við fólk. Samstaða launafólks getur ein hindrað slíkt.

Hún er svo merkileg, að kynna ber hana á vinnustöðum og í félögum.

## Staðan í dag

Stjórnarsáttmáli núverandi stjórnar gerir ekki ráð fyrir grunnkaupshækkunum í komandi samningum. Í stað launahækkana bjóða þeir félagsmálapakka upp á 5-7 milljarða króna á næstu tveimur árum. Með jafnri dreifingu til allra launamanna, svarar þetta til u.þ.b. 2.5% kauphækkunar miðað við lægsta launaflokk opinberra ~~starfsmam~~ manna. Af stjórnarsáttmálanum má ráða að ríkisvaldið mun ekki bæta okkur kjararán síðustu ára átakalaust.

Álíka launalækkunarstefna hefur einkennt aðgerðir síðustu ríkisstjórna. Við "Áhugasamir félagar", getum ekki annað en gagnrýnt það sinnuleysi, sem forystan hefur sýnt með því að undirbúa ekki félagsmenn betur undir fyrirsjáanleg kjaraátök eins og gert var 1977. Við lítum á það sem hlutverk okkar að efla umræður og baráttuandann meðal félaganna í komandi kjaraátökum. Við styðjum kröfugerð samtakanna, en lítum svo á að hún verði aldrei annað en pappírsgagn ef hún verður ekki sameign félaganna.

"Áhugasamir félagar"

Reykjavík 14/2 '80.
Ábyrgðarmaður:
Helga Gunnarsdóttir, s. 41527.

frh. af forsíðu

# Dreifirit til félaga BSRB

samningum. Ef t.d. eru borin saman núverandi laun og laun samkvæmt kröfugerðinni, kemur eftirfarandi í ljós:

| | Núverandi laun: | Laun samkv. kröfugerð: |
|---|---|---|
| 7. lfl. 3. þrep | 309.004.- | 427.934.- |
| 11. lfl. 3. þrep | 358.124.- | 486.803.- |

# Hugleiðingar um Kampútseu

## Markmið sjónvarpsþáttarins

Markmið sjónvarpsþáttarins getur varla hafa dulist neinum sem horfði á hann. Augljóslega var ætlun Pilgers, að notfæra sér auðfengna samúð vesturlandabúa, með sveltandi og sjúk um í Kampútseu, til þess að afla innrás víetnama stuðnings og réttlæta afskipti þeirra af innanríkismálum Kampútseu. Í honum kom m.a. fram að Alþjóða hjálparstofnanir hafi neitað stríðshrjáðum um aðstoð að tilhlutan Bandaríkjanna og Kína. Í grein sem sami John Pilger ritar í blaðið New Statesman, sem hann starfar við, sakar hann hins vegar þessar hjálparstofnanir um að vera framverði vestrænna ítaka og fullyrðir að Alþjóða Rauði krossinn muni vilja veita aðstoð sína til þess að ryðja brautina fyrir afskiptum USA af málefnum Kampútseu. Forvígismenn Rauðakrossins hafa borið það til baka að stofnunin hafi neitað Kampútseu um hjálp af pólitískum ástæðum, hins vegar hafi stjórn víetnama og Heng Samrins, núverandi forseta landsins, neitað þeim um eftirlit með aðstoðinni um tíma. Þessi yfirlýsing kemur öllu heldur heim og saman við þá skoðun Pilgers að víetnamar hafi óttast afskipti Rauða krossins og þess vegna ekki viljað leyfa þeim að annast eftirlit með dreifingu hjálpargagnanna. Hins vegar gengur hún alveg þvert á það sem sami Pilger sagði í sjónvarpsþættinum, að Rauði krossinn hafi synjað hjálparbeiðninni.

Pilger lagði margoft á það áherslu, að viðurkenning á stjórn Heng Samrins myndi strax snúa dæminu við og gera alþjóðlegum hjálparstofnunum kleyft að koma til hjálpar. Ég fæ ekki skilið þetta öðruvísi en svo, að víetnamska hernámsliðið hafi ætlað sér að neyða vesturlönd til að viðurkenna stjórn Heng Samrins, gegn því að leyfa ætti alþjóðlegum hjálparstofnunum að koma til aðstoðar sveltandi og sjúkum í Kampútseu. Sé þetta rétt er hér um að ræða einhverja óhugnanlegustu tilraun sem sagan þekkir, til að versla með líf milljóna manna, fyrir pólitískan ávinning.

Pilger lýsti því einnig yfir, að víetnamar hefðu komið Kampútseu til hjálpar til þess að þjóðin yrði þurrkuð út af morðsveitum Pol Pots. Hann sakaði ríkisstjórn Pol Pots um óhugnanlega glæpi og m.a. þann að hafa tæmt höfuðborgina Pnom Penh. Af mynd hans sjálfs að dæma hafði ekkert líf færst í borgina, þrátt fyrir komu stjórnar Heng Samrin og raunar hefur hungurvandamálið ekki komið til skjalanna, fyrr en eftir innrás víetnama. Til marks um þetta, er sú staðreyna að 1978 seinasta valdaár Pol Pot, voru kamtútseumenn aflögufærir um 150 milljónir tonna af hrísgrjónum og gátu að auki sent Laosbúum gjafakorn, þar sem uppskerubrestur hafði orðið í því landi. Til marks um þetta er einnig, að flóttamannastraumurinn frá landinu hefur ekki hafist fyrir alvöru fyrr en á þessu ári, þ.e. eftir innrás víetnama. Áður en hún varð, höfðu milli 15 og 25 þúsund manns flúið. Til samanburðar má geta þess, að 4% Laosbúa flúðu eftir valdatöku kommúnista þar.

## Þversagnir og falsanir

Sjónvarpsþátturinn sýndi svo ekki verður um villst bágborið ástand hjá fjölda fólks og rakti ítarlega glæpaverk Pol Pot, án þess að bera fram aðrar sannanir en örfá viðtöl og nokkrar ljósmyndir af þeim sem deyddir höfðu verið. Nú dreg ég ekki í efa, að aftökur hafi farið fram eftir valdatöku Pol Pots. Slíkt hefur ævinlega gerst eftir styrjaldir og sérstaklega innanlandsátök eins og þarna fóru fram. Nægir að benda á, aðnærfellt 100 þúsund manns voru aflífaðir í Frakklandi, þegar þjóðverjar höfðu verið hraktir burt þaðan. Aftökur fóru einnig fram í öðrum löndum Evrópu að afstöðnu stríðinu, m.a.s. í nágrannalöndum okkar Noregi og Danmörku.

En mér er til efs að sannleikurinn hafi komið ómengaður í ljós í þessum sjónvarpsþætti, enda var hann gerður undir eftirliti víetnamska hernámsliðsins og af manni sem í Bretlandi er kunnur stuðningsmaður Víetnam í deilum þess við Kampútseu. Í viðtali við unga stúlku kom fram, að hún hafði unnið 20 tíma á sólarhring, hvíldarlaust í 3 ár og að því er manni skildist matarlítil eða -laus að auki. Íslendingar þekkja vel til mikillar vinnu og kalla ekki allt ömmu sína í slíku tilefni. En mér þætti fróðlegt að sjá þann karl eða konu sem haldið hefði út slíkt vinnuálag og hungur að auki í 3 mánuði, hvað þá í 3 ár.

Í heimi auglýsingabrellna og fjölmiðlunar er hægur vandi að kvikmynda það sem manni sýnist. Og við skulum vera þess minnug, að þessi sjónvarpsþáttur er gerður undir ritskoðunaraugum víetnamska hersetuliðsins, sem varla skoðar málin hlutlaust. Sagt er að allir hlutir hafi fleiri en eina hlið. Meira að segja þýsku nasistarnir fengu ýmsu áorkað í samgöngum og skipulagningu. Samkvæmt sjónvarpsþættinum er ekki slíku til að dreifa um stjórn Pol Pots. Hún hefur bara eina hlið. Sjónvarpsþátturinn gerir hana að sadískum morðhundum, sem höfðu það markmið eitt, að afnema alla aðra en sjálfa sig, pynta, drepa, myrða og meiða, rífa niður, rústa, banna og brjóta. Og samt hafði slíkur söfnuður styrk til þess að sigrast á bandaríska hernum og Lon Nol stjórninni, stjórnaði landinu í hartnær 4 ár og hefur enn viðnámsþrótt til þess að verjast 200 þúsund manna herliði víetnamskra úrvalssveita. Getur þetta haft við rök að styðjast?

Pilger fullyrti að Pol Pot hefði bannað allar bækur og afnumið peninga. Samt er vitað að bækur voru útgefnar í Kampútseu á dögum Pol Pot stjórnarinnar. Og samt sýnir Pilger sjálfur peningaseðla sem hann viðurkennir (kannski af gáleysi?) að Pol Pot stjórnin hafi prentað rétt áður en víetnamski herinn gerði leiftursókn sína inn í Kampútseu, Var þá prentun peninga á stefnuskrá Pol Pots?

## Bakgrunnur átakanna

Það er réttmætt, að ákalla heiminn um aðstoð til handa nauðstöddum í Kampútseu og sem slíkur gerir þáttur Pilgers áreiðanlega mikið gagn. En réttlætir hungur og hörmungar þess fólks, vopnaða innrás og nýtt borgarastríð í landinu? Er það ekki miklu fremur tilgangur þáttarins, að dylja grimmilegt eyðingarstríð víetnama gegn Kampútseu, bakvið heilagt ákall um hjálp til handa þeim, sem víetnamar hafa sjálfir hrundið út í neyðina? Alla vega skýrir myndin engan veginn bakgrunn átakanna. Hann verður aðeins



skýrður með hliðsjón af sögu og samskiptum þessara tveggja nágrannaríkja. Víetnamar og kampútseumenn hafa frá fornu fari eldað grátt silfur saman. Kampútseumenn búa í frjósömu landi og offjölgun er vandamál sem þeir hafa aldrei átt við að stríða. Víetnamar búa hins vegar í landi sem er fjöllótt og geysilega þéttbýlt, - við ósa Rauðár er þéttbýli meira en gerist t.d. á Indónesíu, sem er þó æði þéttbýlt land. Auk þess hafa erjur verið til staðar milli stjórna víetnamska og kapútseanska kommúnistaflokksins allt síðan árið 1956. Indókínverski kommúnistaflokkurinn sem laut stjórn Ho Chi Minh lagði ofuráherslu á að halda þeirri vígstöðu sem Viet Minh hafði náð eftir sigurinn yfir japönum og síðar frökkum í norðurhluta Víetnam. Forysta kampútsíska flokksins hefur gagnrýnt þetta og talið baráttuna innan Kampútseu hafa setið á hakanum. Árið 1967 hóf kampútsíski flokkurinn vopnaða baráttu gegn Shianouk fursta og stjórn hans. Þetta var litið hornauga af víetnamska flokknum, þar sem hann hafði hagsmuni af því að stjórn Shianouks væri hlutlaus andheimsvaldasinnuð stjórn, en það gerði honum kleyft að nota sér hálendið á landamærum landanna til vistaflutnings og skæruliðar þjóðfrelsisfylkingarinnar gátu flúið inn á kampútsískt landsvæði án þess að eiga á hættu að bandarískir herflokkar eltu þá þangað.

Þessar eru hinar raunverulegu orsakir átakanna og engum sem til þekkir getur blandast hugur um að víetnamska innrásarliðið er ekki komið til Kampútseu í mannúðarskyni, heldur í hernaðar- og yfirgangsskyni. Víetnam ætlar sér yfirráð yfir öllu Indókína, hvort sem öðrum líkar það betur eða verr. Þess vegna réðust þeir inn í Kampútseu. Þess vegna hafa hundruð þúsunda ef ekki fleiri víetnamar flust til Laos og sest þar að. Þess vegna hafa víetnamar gert hernaðarbandalag við rússa. Og þess vegna - má bæta við - hafa þeir fengið John Pilger til þess að taka umræddan sjónvarpsþátt svo takast megi að fá yfirráð þeirra og leppstjórnar þeirra í Kampútseu viðurkennd á alþjóða vettvangi.

## Lokaorð

Hérlendis er fremur lítið rætt um bakgrunn átakanna og áberandi tilhneigingar hefur gætt hjá fjölmiðlum til þess að leggja trúnað á allar sögur sem sagðar eru af hryllingsveldi Pol Pot. Á hinn bóginn hefur sjónvarpið neitað að sýna kvikmynd sem tekin var á dögum Pol Pots af sænska rithöfundinum Jan Myrdal á þeirri forsendu að hún væri áróður. En hvað er þessi sjónvarpsþáttur annað en áróður. Og sjónvarpsþáttur sá sem sýndur var í sumar og gerður undir handleiðslu víetnamska innrásarliðsins er heldur ekki annað en áróðurskvikmynd frá öðrum aðilanum. Nú má vera að ekki sé kostur á öðru en áróðursmyndum frá beggja hendi. En þá vaknar spurningin, hvers vegna sýnir sjónvarpið aðeins áróður frá öðrum aðilanum? Er það vegna þess að núv erandi útvarpsráð styðji innrás víetnama inn í Kampútseu, eða er það bara vegna handvammar og aumingjaskapar? Hvort heldur er, þá held ég ekki að neita beri fólki um upplýsingar um þetta mál, þótt svo efnið sé áróðursblandað. Varla getur það verið verra en þátturinn sem sýndur var um daginn og varla getur útvarpsráð tekið sér vald til að hafa vit fyrir almenningi um þessi mál og matað hann á áróðri fyrir stefnu Sovétríkjanna og bandamanna þeirra í Indókína

---

### SAMEINING KFÍ OG EIK

framhald af forsíðu

Aðalatriðið er því hversu opinn á flokkur okkar að vera. Á hann að vera þröngur flokkur fólks sem er í einu og öllu sammála og leggur jafnar og miklar kröfur á alla félaga eða á hann að vera opnari, laga sig að aðstæðum félaganna en ekki öfugt.

Niðurstaða félaga KFÍ var á þá lund að þörf væri opnari flokks til þess að geta stjórnað og haft áhrif á fjöldann. Til þess þarf flokkurinn að vera opinn og víðsýnn, hætta að steypa alla í eitt mót því fjöldinn verður aldrei steyptur í eitt mót.

KFÍ leggur einnig ríka áherslu á að sameining sósíalista í eina sterka og sameinaða hreyfingu sé aðeins að hefjast.

Sameining KFÍ og EIK er ekki endir neins nema sundrungarinnar. Ekki endir sameiningar heldur upphaf hennar.

Áframhaldandi sameiningarstarf verður meginatriðið á næstunni og sker úr um það hvort markmið okkar verða framkvæmd.

---

### BSRB OG SAMNINGARNIR

framhald af forsíðu

en launamaðurinn borgar brúsann. - Þetta kalla þeir háu herrar síðan kjarabót.

Yfirleitt eru þessi félagslegu réttindi svo sjálfsögð mannréttindi að þau eiga alls ekki heima sem skiptimynt í kjarasamningum.

Einasta trygging opinberra starfsmanna gegn þessháttar viðskiptum er að setja sig vel inn í málin og hafa virkt eftirlit með forystumönnum sínum og aðgerðum þeirra.

Þeir hafa að vísu dálítið til síns máls. Með sífelldum drætti og úrtölum hafa þeir ásamt fleirum talað kjark úr fólki. En þrátt fyrir það er ekkert sem gefur þeim rétt til að álykta fyrirfram að opinberir starfsmenn séu ragir við aðgerðir. Forystan ætti að sjá sóma sinn í að stappa stálinu í fólk, verða raunveruleg forysta, ekki samsafn af ráðlausu og einangruðu úrtölufólki.

#### Samstaða færir sigur

Það sýndi sig árið 1977, þegar við sams konar kaupránsöfl var að etja og nú, að samstaða opinberra starfsmanna var það atriði sem réð úrslitum.

Forystumenn BSRB eru ragir, þora ekki út í aðgerðir og bera því við að opinberir starfsmenn vilji ekki aðgerðir.

Opinberir starfsmenn verða einnig að gera sér það ljóst að engar umtalsverðar kjarabætur nást fram nú nema með aðgerðum. Við stöndum frammi fyrir ríkisstjórn sem ekki vill hækka kaupið. Það verður þess vegna að neyða hana til þess með víðtækri samstöðu um þær aðgerðir sem duga.

---

### ÚR MÁLEFNASAMNINGI RÍKISSTJÓRNARINNAR

Það er margt athyglisvert í málefnasamningi ríkisstjórnar Gunnars á Leiðarenda, eins og hún er gjarnan kölluð.

Hér skulum við athuga þar sem fjallað er um verðhækkanir

Þar er sett þak á vissar vöruverðshækkanir (ath ekki allar) og fastsett 8, 7 og 5% á ákveðnum dögum.

Jafnframt er tekið fram að ef "hækkunarþörf" verði meiri komi hún til áður en "þakleikurinn" hefst.

Það er semsagt verið að gefa leyfi fyrir miklum hækkunum á næstunni sem launþegar eiga að bera óbættar. Að því loknu ætla ráðherrarnir að segja: Nú byrjum við.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
1. tbl. 9. árg. 29. 2. 1980



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 22366
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.

# Erlent fjármagn í Kína



Hua Guo-feng formaður í félagsskap Giscard d´Estaing Frakklands-forseta að kanna heiðursvörð hans á Orly flugvelli.

Sósíalískt Kína heldur áfram á þeirri fyrirhuguðu braut að hagnýta erlenda fjárfestingu á ýmsan hátt í því skyni að flýta fyrir áætlun landsins um nýtískun.

Ein leiðin er að setja á stofn fyrirtæki með kínversku og erlendu fjármagni í hlutafélagsformi. Nýleg lagasetning gerir aðstæður og möguleika ljósari í augum erlendra fyrirtækja.

Lög um slík fyrirtæki, samþykkt á annari setu fimmta Þjóðþingsins í júní 1979, kveða á um lagavernd fyrir fjárfestingu, hagnað og önnur lögleg réttindi og hagsmuni erlendra þátttakenda í þessum fyrirtækjum í Kína.

Kveðið er á um, að erlend fjárfesting í fyrirtækjum skuli yfirleitt ekki vera minni en 25% af hinu skráða hlutafé. Hlutfall erlends fjármagns getur verið hærra en 50 eða 60% eða jafnvel enn hærra, og starfstími fyrirtækjanna getur verið 10 ár, 20 ár eða jafnvel lengri, samkvæm ummælum varaforsætisráðherrans Lí Xíannían í nýlegu viðtali við bandaríska vini.

Sú tæknikunnátta og sá vélbúnaður, sem hinir erlendu þátt-



Nýr olíuborpall á Suður-Kínahafi.



Göngudráttarvélar framleiddar í Beijing fyrir landsbyggðina.

takendur leggja fram, eiga að vera fullkomlega meðal hins besta, sem gerist og henta þörf. um Kína.

Framleiðsluvörur þessara fyrirtækja má selja á heimsmarkaði og á innlendum markaði.

Auk fyrirtækja í hlutafélagsformi er Kína að verða þátttakandi í alþjóðlegum bankaviðskiptum, svo að það geti hagnýtt erlent fjármagn í áætlun sinni um nýtískun.

Í því skyni hefur starfsemi Kínabanka verið aukin, og hann þar með gerður að banka, sem sérhæfir sig í alþjóðlegum fjármálaviðskiptum undir beinni stjórn ríkisstjórnarinnar.

Síðan hefur Kínabanki undirrit að lántökur hjá bönkum í Bretlandi, Frakklandi, Kanada og Japan til kaupa á vélbúnaði og öðrum varningi til iðnaðar.

Í maí voru tveir samningar undirritaðir við japanska banka. Annar þeirra, gerður við Útflutnings- og innflutningsbanka Japans, er um lán í japönskum gjaldeyri jafnvirði 2000 milljón bandarískra dollara til rannsókna á kola- og olíubirgðum Kína.

Annar samningur er um lán frá nokkrum japönskum einkabönkum að verðmæti 6000 milljónir bandaríska dollara til að fjármagna kaup á japönskum vélbúnaði innan japansk-kínverska langtíma verslunarsamnings.

Kínabanki tekur á móti innlögnum frá erlendum bönkum, firmum og einstaklingum, og er það enn ein ráðstöfun til að afla fjár til nýtískunar Kína. Auk útibúa í öllum stærri hafnarborgum Kína og nærri öllum upplands fylkjum, hefur Kínabanki skrifstofur í Hongkong, Singapore, London og Luxemburg.

Jafnvirðisverslun og önnur form samvinnu í framleiðslu við erlend ríki er annar mikilvægur þáttur í því að örva erlenda fjárfestingu. Bankinn hefur undirritað ábyrgð á nokkrum af hinum meira en 1000 slíkum samningum fyrir kínversk fyrirtæki á síðastliðnu ári.

ðal þeirra er samningur um kolanám í Kína. Hinir erlendu þátttakendur munu leggja til vélbúnað til námuvinnslunnar og fá kol sem greiðslu í staðinn.

Samkvæmt öðrum samningi munu erlend firmu leggja kínverskum útgerðarfyrirtækjum til fiskiskip og tilheyrandi búnað, og Kína mun greiða með sjávarafurðum.

Gistihús munu einnig verða reist í Beijing og öðrum ferðamannastöðum fyrir erlend lán eða í hlutafélagsformi.

Séð verður svo um, að erlendar fjárfestingar og lán hafi ekki skaðleg áhrif á sósíalisma í Kína. Engin pólitísk skilyrði verða tengd erlendum lánum í Kína. Hæð vaxta og önnur greiðsluskilyrði á lánum eru í samræmi við almennar alþjóðlegar venjur.

Þar eð kapítalísk fyrirtæki í iðnaði og verslun voru gerð að sósíalískum fyrirtækjum í Kína fyrir meira en tveim áratugum, geta erlendar fjárfestingar í hlutafélagsfyrirtækjum aðeins átt sér stað innan hins opinbera geira. Stofnun og rekstur slíkra fyrirtækja heyra undir kínversk lög, tilskipanir og reglugerðir.

Samkvæmt þeirri stefnu að vera óháð og byggja á eigin getu og reka áætlunarbúskap hefur hið sósíalíska Kína farið inn á þá braut að taka erlend lán innan marka greiðslugetu sinnar. Í fjárlögum fyrir 1979 er gert ráð fyrir 40.000 milljónum júan í erlendum lánum.

Fyrirtæki þessi eru ekki stofnuð, fyrr en búið er að kanna vandlega, hvort nauðsynlegar náttúruauðlindir séu tiltækar svo og mannafli, tegund erlendra tækja, tæknikunnátta sem í boði er, að hve miklu leyti framleiðsluvörurnar eru nauðsynlegar fyrir áætlunina um nýtískun Kína og hver verði hagur Kína og hinna erlendu fjárfestingaraðila af fyrirtækinu samkvæmt meginreglunni um jafnan og gagnkvæman hagnað.

Lögmætur réttur hinna erlendu fjárfestingaraðila er eigi að síður fullkomlega tryggður. Eftir að þeir hafa fullnægt skuldbindingum sínum samkvæmt lögum og smningum geta þeir flutt úr landi hreinan hagnað sinn og aðra sjóði frá Kína í erlendum gjaldeyri, sem tilgreindur er í samningunum um fyrirtækin í hlutafélagsformi samkvæmt regl um kínversku ríkisstjórnarinnar um erlend gjaldeyrisviðskipti.

Í skýrslu sinni um störf ríkisstjórnarinnar til Þjóðþingsins gat Húa Gúofeng forsætisráðherra þess, að tekin hefðu verið upp ýmis hagkvæm vinnubrögð notuð í alþjóðlegum viðskiptum til þess að hagnyta erlent fé, og væri það "ákveðin og mikilvæg stefna kínversku stjórnarinnar".

Að flytja inn tæknikunnáttu, hagnýta vel erlent fé og kappkosta að auka útflutning var með meðal hinna tíu stefnumiða, sem hann taldi upp í skýrslu sinni og Kína ætti að starfa eftir í því skyni að efla þjóðarbúskap sinn.

HsinHua News.

# Heimilisdraugar

Alþýðuleikhúsið er nú að sýna Heimilisdrauga, nýtt leikrit eftir Böðvar Guðmundsson, í Lindarbæ í Reykjavík.

Sviðið í Lindarbæ setur öllum leikritaflutningi all þröngar skorður en AL hefur tekist nokkuð vel að greiða úr því með einföldum sviðsbúnaði. Þá var einnig skemmtilegt hvernig ýmsir "kerfiskallar voru sýndir í brúðulíki. Að leikarar bregði sér í ýmis gerfi eða noti grímur er mikið notað í AL og finnst mér það gefa sýningunum tilbreytingaríkan og skemmtilegan blæ. Þá stóðu leikararnir sig vel að vanda og var leikur þeirra líflegur.

Söguþráðurinn gengur út á húsnæðisbasl ungra hjóna sem hugsa stórt og kaupa fokhelt en atvinnuleysi neyðir þau út í að selja og kaupa aftur fokhelt en minna. Þegar atvinna eykst og þá um leið það fé sem hjónin hafa á milli handanna, fer "lífsgæðakapphlaup" hjónanna að setja strik í reikninginn. Þau kaupa sér sjónvarp, sófa, ísskáp, sjálfvirka kaffikönnu, stereógræjur o.fl. Auðvitað hlaðast svo upp víxlar og húsbóndinn verður að vinna uppi á regin fjöllum til að hafa fyrir afborgunum, en kemur þó ekki hurð fyrir dyr. Böðvar tekur einnig fyrir hvernig ættardraugur er notaður til að skýra hvernig sumir verða undir í lífsbaráttunni. Með því að skella skuldinni á draug horfir fólk fram hjá stéttskiptingu þjóðfélagsins. Hinir raunverulegu heimilisdraugar reynast vera holdi klæddir kerfiskallar.

Lífsgæðakapphlaupið

Auglýsingaflóð með tilheyrandi ljósa-show birtist í leikritinu. Sólarlandaferðir, fljúgið fyrst, borgið seinna. Kaupið sófa með afborgunum, ísskáp með afborgunum, stereógræjur með afborgunum... Og ljótir bissnisskallar telja fátæku fólki trú um að það þurfi á öllu þessu að halda og binda þannig fólk á skuldaklafa.

All oft stakk það mig á sýningunni að þar gægðist fram hugmyndafræði sem algeng er meðal vinstrafólks en gæti eins verið sótt í Biblíuna: Safnið ekki því sem mölur og ryð fær grandað... Stundið ekki eftirsókn eftir vindi. Vangaveltur um þessar hugmyndir héldu fyrir mér vöku eftir sýningu og mig langar til að fjalla nokkuð um þær, þótt ekki ætli ég að eigna Böðvari eða Heimilisdraugum hans þær allar.

Það ku vera borgaralegt, nei - smáborgaralegt, að kaupa sér sjónvarp. (Smáborgari = smásálarlegur borgaralega þenkjandi náungi. Hí á hann.) Er það ekki sjálfsagt að eiga útvarp? Hvers vegna er þá fáránlegt að eiga sjónvarp? Væri ekki nær að berjast fyrir bættri dagskrá sjónvarpsins, en að forsmá það sem imbakassa? Eða stereó-græjurnar. Ég minnist þess að einum fyrrverandi þingmanni Alþýðubandalagsins þótti miður að fólk skyldi ekki borga í flokkssjóð, en ætti þó þvíumlíkt sem stereógræjur. Og til hvers allar þess þessar frystikistur, ísskápa, grillofna og sjálfvirku kaffivélar? Blöskrar einhverjum þótt ég bæti við þvottavél, ryksugu og eldavél?

Það er bæði sjálfsagt og eðlilegt að þessi heimilistæki séu til á hverju heimili. Það sem hins vegar er gagnrýnisvert erað fólk skuli ekki geta eignast þau á auðveldan og eðlilegan máta.

Það er hægt að komast af án ýmissa lífsþæginda, en það hlýtur að vera stefnan að fólk geti notið allra þeirra lífsþæginda sem náttúra jarðar býður upp á og tækniþekking mannsins getur nýtt.